# Þrjár Reglur

fyrir

alla þá sem sáluhólpnir verða vilja; en sérílagi þá sem vilja verðugliga til Guðs borðs gánga.

Þar sem á umvenðun syndugs manns ríður allt, ef hann skal hæfur verða til að fá fyrirgéfníngu synda sinna hjá Guði, og til að meðtaka Jesú líkama og blóð verðugliga, þá vil eg hér áreiðanliga ráðleggíngu géfa um það, hvörs manneskjan frá sinni síðu gjæta þurfi, til þess að hún rétti=liga og á stuttum tíma, géti umvendt orðið. Og er þetta þvílík ráðlegging, sem saunreyndt er, að hjá mörgum sál=um vel dugað hefur, svo allir þeir, sem henni trúliga fylgt hafa, — enda þó áður hafi stærstu synda þrælar verið — hafa á stuttum tíma frelsi og frið við Guð öðlast, og kom=ist í þvílíkt ástand, að maður hefur með gleði komist að raun um, að þeir orðnir væru nýar sképnur í Jesú Christó. Mátinn hér til er beinn og einfaldur, og útkrefur eingan stóran vanda, vitsmuni eður orku, heldur hreinskilið hjarta=lag og viðleitni, til þess að Guð meigi það allt í manni verka, er til hans umvendunar útheimtist.

Það ríður nefniliga á því, að syndarinn géfi gaum að vissum þremur Reglum, sem fljóta af innvortis náttúru þess máta, sem Guð niisett hefur fyrir þá, sem sáluhjálp=ina öðlast vilja; hvör máti svoleiðis lagaður er, að sérhvör

stórsyndari gétur eflaust hólpinn ordid, ef hann honum dyggiliga fylgir; en gjøri hann þad ekki, þá má hann kénna þad ótrúskap sjálfs sín, en Regluuum ekki, ef hann ei gétur frelsi feingid. Reglan fyrsta er þessi: Bid þú um nádina! Sú önnur: Vak þú yfir nádinni! Sú þridja: Yfirvega þú Guds ord réttiliga!

Meiníngin er: af því syndarinn gétur ekki sjálfur sér umvendt, hlýtur hann ad bidja um Guds nád þar til; þar nærst af því hann hægliga gétur mist aptur þá med bæninni feingnu nád, þá hlýtur hann yfir henni ad vaka; og í þridja lagi, af því Guds ord er þad nádar medal, med hvörju Gud upplýsir oss, og framkvæmir hjá þeim fullordnu Endurfædínguna, edur umbreytíngu þeirra hjartalags, þá hlýtur madur þad réttilega ad yfirvega. Af þessu má sjá, ad sagdar þrjár Reglur fljóta af innvortis náttúru þess máta, sem Gud hefur sett oss ad fylgja, ef vér hólpnir verda viljum. En svo menn nú þetta enn betur skilji, þá viljum vér Reglur þessar, hvörja um sig, enn framar stuttliga útskýra.

## Sú fyrsta Reglan:

### Sá sem ødlast vill Guds nád, til ad géta umvendst réttiliga, hann hlýtur um þá sømu nád ad bidja.

En þessi Bæn hlýtur þó ad vera allt ødruvísi løgud, en sú sem madur ádur medan syndin hjá honum drottnadi, hafdi máské vanid sig á. Hún má ekki vera einúngis kaldt, dofid og dauft varanna verk, heldur skal hún ské med stærstu hjartans alvørn. Madur skal því gánga inní sitt Svefnhús, einsog Frelsarinn rádleggur (Matth. 6, 6.), edur í einhvørn annan afvikinn stad, hvar hann gétur alleinn, í einrúmi, vid Gud talad, fellur sídan nidur á kné fyrir hønum, og af

øllum sálar og lífs kroptum hrópar til hans um náð; og það ekki að eins um þá náð, að fá syndanna fyrirgéfníngu, heldur og svo um þá náð, að hjartalag hans géti sannarliga umbreytt orðið, og elska til syndarinnar mætti úr því upprætt verða.

Nú af því Christur hefur oss líka svo þessa fyrstu náð, til að géta umvendst, afrekað, svo byggir maður og svo þessa sína fyrstu bæn, á hans forþénustu, og sár-hrópar til Guðs, að hann, fyrir hans skuld, vyrðist að veita sér náð til umvendunar, þar Jesús Christur hafi með svo dýru lausnargjaldi, keypt hana sér til handa. Þesskonar bæn gjørir maður ekki að eins einusinni eður tvísvar, heldur ser maður henni dagliga fram, með andvørpum, hrópi og kveini til Guðs, uns hann øðlast þá náð, að hann af eigin reynslu verður sannfærður um fullkomna umbreytíngu síns hjartalags.

Nú kann margur að þeinkja svoleiðis: eg læt það satt heita, að maður géti Guðs náð øðlast, ef hann biður á þennan hátt; en hvørnig gétur einn syndari svoleiðis beðið? Er ekki bænin sjálf verk guðligrar náðar, hvørja vér þess vegna høfum ekki af sjálfum oss til, meðan vér í syndinni dauðir erum? Þar til svarast:

Að vísu er það satt, að slík bæn er verk Guðs náðar, sem ein, í syndunum dauð manneskja gétur ekki af eigin kroptum framkvæmt; en vér vitum og þar hjá, að sú undangángandi og uppvekjandi Guðs náð klappar mjøg opt og alvarliga uppá syndarans hjarta, til þess að fá hann af hans synda svefni uppvakið. En svo opt sem hún það gjørir, frambýður hún manneskjunni nokkuð það, sem manneskjan, af sjálfri sér, ekki til hefur; nefnilega, krapt til þess, að andvarpa svoleiðis, sem hún við þarf, til Guðs, og hrópa til hans um hjálp, upp úr djúpi sinnar spillíngar. Þetta gétur

syndarinn sjálfur formerkt, ef hann gefur ad því gjætur. Hann verdur líklega opt undir Guds orda heyrn; lika svo í sjúkdómi, og vid dandsföll annara manna; stundum og svo vid skélfandi drauma; líka einnig af því ad þeinkja til dauda síns og þess sídarsta dóms, sem og til himnaríkis og helvítis edur þeisháttar; vid þetta verdur hann opt óróligur út af sínu ástandi, og midt í því kémur upp hjá honum, í sama augnabliki, laungun eptir sáluhjálpinni, og heimuglegt andvarp eptir Guds nád. Þessi laungun og andvörp eru þó ekki verk hans eigin náttúru, heldur þvílíkur einn kraptur, sem hin undangángandi Guds nád hjá honum verkar. Taki madur nú til fulls móti þessum krapti, svo verdur honum ekki framar ómögulegt ad bidja og hrópa til Guds svoleidis sem naudsýn hans útkrefur; og midt í því hann þad gjörir, verdur kraptur bænarinnar hjá honum, fyrir Guds nád, allt stærri og sterkari.

En nú kunna adrir ad vera, sem í þessu tilliti svoleidis þeinki: Ritníngin seigir þó sjálf, ad Gud bænheyri ekki synduga (Jóh. 9, 31). Þessvegna sé þad til einkis, fyrir þann ómveudta, ad vilja bidja hann, því Gud vitni sjálfur berliga (Esa. 1, 15), „Þó þér útbreidid ydar hendur, þá byrgi eg samt mín augu fyrir ydur; og þó þér bidjid margfaldliga, þá heyri eg ydur samt ekki". Þar til svarast: þessar og þvílíkar Ritníngargreinir tala ad eins um þvílíka syndara, sem einasta bidja um fyrirgéfníngu syndanna, til ad fá Guds strøffunar dóma umflúid; ellegar þá sem einúngis bidja um líkamliga hjálp, en ekki um umbreytíngu edur betrun hjartalags síns; já, sem hafa jafnvel midt undir bænagjørdinni, ásetníng ad halda áfram í sínum drottnandi syndum; og bænin sjálf framkvæmist þessvegna ekki, fyrir krapt þess heil. Anda, heldur af þeirra eigin náttúru kroptum. Flýtur þad því sjálfkrafa af ástandi þeirra, ad þared tilgángur bæna þeirra, er Gudi

svo fráleitur, ad þeir ekki géta bænheyrdir ordið. Því seg- ir Davíd: (Ps. 66), „ef eg hefdi nokkurn órétt fyrir stafni í hjarta mínu, þá mundi Drottinn ekki bæn- heyra mig". En þeir syndarar, sem vér tilmeinum, bidja ekki einasta um fyrirgéfníngu syndanna, heldur og svo um sanna umbreytíngu síns hjartalags, og bera allra mestu áhyggju fyrir því, ad verda sannarliga umvendtir. Þessvegna er þá og svo bæn þeirra, verk Guds nádar; en þad sem sjálfur hann veitar, kann hann ekki ad forsmá; hvar af ad flýtur, ad þvílík ein bæn verdur sannarliga bæn- heyrd; hvad og reynslan margfaldliga stadfest hefur.

## Sú önnur Reglan:

**Þegar manni er hrein alvara ordin umvendtur ad verda, hlýtur hann yfir þeirri nád ad vaka, sem hann med bæninni af Gudi ødlast hefur.**

Undir eins og Gud veitir manni krapt til ad bidja, géfur hann honum líka svo krapt til ad vaka; en þá hlýtur mad- ur þann sama krapt med stærstu umhyggju og alvøru, sér í nyt ad færa. Madur skal því vaka yfir hjarta sínu, til þess ad syndugir þánkar ekki yfir því drottni; svo ad Guds nád- ar verkanir í því, verdi ekki af þeim hindradar. Madur skal vaka yfir augum sínum og eyrum, til þess ad í gégnum þessi port hjartans géti eingin ný saurindi inní þad komist, sem andans innvortis erfidi aflaga edur hindra kunni.

Madur skal vaka yfir túngu sinni, ad hann ekki med saurugum og syndsamlegum ordum hryggi þann heil. Anda (Eph. 4, 29. 30.) og forvilli sitt hjarta: (Jac. 1, 26). Madur skal vaka yfir því, í hvørjum selskap og manna um- seigni hann er, til þess ad hann skilji sig vid þá sem vondir eru, og aldeilis yfirgéfi og skúfi øllum syndugum veraldar

vinskap, því hann er fjaudskapur í gégn Gudi (Jac, 4, 4). En hljóti madur, vegna sinnar köllunar, samt ad umgángast med vondu fólki, þá skal hann brynja og skorda hjarta sitt fast í gégn því vonda, svo hann gjöri sig ekki hluttakandi í annarligum syndum. Hann skal því vaka yfir allri sinni hegdun, svo hún ekki med nýum ásetníngs syndum flekkud verdi. Loksins skal madur vaka yfir verkunum gudligrar nádar, svo hann géfi þeim æ betur og betur rúm í hjarta sínu; og sérílagi taki vel vara á þeim tímum, sem nádin vitjar hans, og Gud vill géfa hönum nýar hræríngar til bænarinnar, edur til ad yfirvega Guds ord, edur til ad strída á móti syndinni, edur til ad æfa kjærleikans verk vid náúngann og s. fr. svo ad madur á þeim tímum leitist vid, med andvörpum og sárbeidni, ad þreyngja sér æ dýpra og dýpra inní afgrunn Guds nádar í Christó. Þessi vaka er midt í verki umvendunarinnar í mesta máta naudsýnlig; og sá sem því ekki gaum géfur, heldur lætur syndina innvortis og útvortis hafa yfirrád hjá sér, hann gétur ómöguliga á réttan veg komist. Margar manneskjur byrja ad vísu í fyrstu umvendunarinnar verk alldyggiliga; þær bidja og grátbæna Gud um nád; og hann bænheyrir þær, og veitir svo mikla nád, sem þær ad eins medtaka vilja; og þær hlaupa sídan á skeidinu fyrst um sinn allfinlega (Gal. 5, 7); en af því þær vaka ekki nógu trúliga, og eru ekki svo stödugar, sem þyrfti, þá tapa þær feinginni nád aptur, og óvinurinn fær adsetur í hjarta þeirra ad nýu. En þess er þó hér hjá ad gjæta, ad vaka þessi finnst í uppbyrjun umvendunarinnar nokkud torsókt; en sé madur trúfastur, verdur hún hvad af hvörju æ léttari og audveldari, svo madur kémst þó loksins til svo sællrar æfíngar og vana í þessu tilliti, ad hann meinar, ad hann varla géti annad, en sífeldt í verki vökunnar, stödugur stadid. Þó af því, eins og eg sagdi, ad þessi vaka finst í uppbyrjaninni heldur torveld, svo vill þad opt til, ad manneskjan er í fyrstu ekki svo forsjál og vareygdarsöm sem skyldi, og hlýtur því, ýmist innvortis edur útvortis,

skada af sálar óvinum sínum. Þó nú þetta tilberi, má madur einganveigin örvænta, heldur taka fyrir sig nýan hug og dug, og flýa í bæn og trú til Jesú, af öllu hjarta bidja fyrirgéfníngar á yfirsjón sinni, og beidast nádar, til ad sýna stærri forsjálni á eptir. Þannig fylgjast þá, hjá einu Guds barni alltíd ad, á víxl, bæn og vaka, alla þess lífdaga, sem aldrei meiga afláta edur adskiljast.

## Sú þridja Reglan:

Hvør sem sannarliga laungun hefur til þess ad verda umvendtur, hann hlýtur Guds órd réttiliga ad rækja og þad um hønd ad hafa.

Þetta skal ské, svo vel þegar madur sjálfur les Guds ord, sem þá hann heyrir þad af ødrum. Vilji madur lesa Guds ord á réttan hátt, þá hlýtur hann ad gjøra þad í þeim tilgángi, ad ødlast af því sanna upplýsíngu, og fyrir þess krapt géta ordid ad nýrri manneskju. En þetta gétur ské, ef madur bædi á undan lestrinum, midt í því hann les, og á eptir þad bidur af hjarta um nád til þessa; ef madur ekki les ofmikid í einu, og ekki meira enn svo, ad hann vid hvørja meiníngarfulla málsgrein, géti staldrad vid, til þess ad lipta hjarta sínu til Guds, til ad frambera fyrir hann innihaldid, í fáordu en þó brennheitu andvarpi, um ad hann vyrdist ad veita manni þad, sem éfnid umhøndlar. Þessvegna er þad rádligast þeim sem þetta verk byrja, ad þeir taki fyrir sig, á sagdan hátt, ad lesa og yfirvega þá fjóra Gudspjallamenn; af því ad í þeim verdur Jesús oss, med sinni nád og med sínu eptirdæmi, allraljósast fyrir sjónir settur; en þar á eptir kann madur ad halda áfram ad lesa á sama hátt, hin ønnur rit þess nýa Testamentis, sídan Davíds Sálma, og þar á eptir þær adrar bækur Ritníngarinnar.

Pad sem madur nú ekki skilur, þegar hann les það, fram hjá því skal hann gánga með audmýkt, og láta eingin efamál hindra sig; en haldi sér að eins fast við það, sem klárt og augljóst er; og lifi í þeirri vissu von, að Guð muni smátt og smátt líka svo upplýsa sig um hið annað, eptir sem hann áliti sér það naudsýnlegt vera.

En hvað heyrn Guðs orða snertir, þá skédur hún á réttan hátt: þegar madur fyrst leitast við að heyra þá kénnendur, sem hann er viss um að kénna ordið hreint og klárt; þar næst þegar madur hefur það sama góða augnamið til að heyra það, sem ádur er sagt, að hann hafa skulí til að lesa það; en framar, þegar madur bædi ádur enn hann fer að heyra ordið, og midt undir áheyrn þess, líka svo á eptir, bidur Guð af øllu hjarta um náð sína, til að géta af því ávøgst fært; síðan þegar madur fúsliga og allrahelst tekur á móti því, sem stakligast snertir hans sálar ástand, og kémur við hans samvitsku; og loksins þegar madur geymir það og yfirvegar í hjarta sínu, svo það géti þar þess dýpri og vissari rætur fest.

Vilji madur nú, ásamt heil. Ritníngu, ogsvo nota sér adrar andlégar bækur til uppbyggíngar, þá hlýtur hann framast øllu, að gjæta að því, að hann ekki af fávitsku, velji skadligar bækur; hvørjar opt með stórri máls fegurð, en undir eins til þess stærri skada, því midur, ofmargar, á þessum døgum, fyrir sjónir koma; til stærstu ólukku þeim sálum, sem ekki eru því betur grundvalladar *).

En á medal hinna gódu bókanna, hlýtur madur og svo í valið að gánga, að hann velji sér þær fyrst til lesi-

*) Því er betur að í vorri túngu géfast svo fáar sem eingar slíkar andlegar Bækur, en margar í ødrum. Utgéf.

urs, sem nytsamligastar eru, og beinast til augnamidsins leida. Annars, yfir høfud ad seigja, er þad ekki rádlegt fyrir uppbyrjendur umvendunarinnar, ad þeir gefi sig til ad lesa margslags bækur. Arndts sanni Christinndómur, Werners rétti Himins vegur og Doddridges sanna Gudhrædsla, géta géfid þeim, sem þær Bækur hafa, svo mikla upplýsíngu fyrir skynsemina og uppørfun fyrir hjartad, sem þeir hafa þørf fyrir *).

---

Hvør sem nú þessum framsettu þremur Reglum, med øllum sér møguligum trúskap fylgir og þær æfir, hann mun á stuttum tíma verda ný og ønnur manneskja; og Guds nád mun svo kroptugliga í honum verka, ad hann vid kénnimerki hinnar nýu sképnu í Christó, mun æ berlegar hjá sjálfum sér var verda. Hafi nú madur hér ad auki tækifæri ad umgángast reynda Lærifedur, sem sjálfir óyggjanliga á Guds vegi framfara, edur og ønnur vel æfd Guds børn, þá gétur madur mikid stór andleg not þar af haft; en þó hlýtur hann samt trúliga ad gjæta þess sem eptirfylgir:

1. Ad fordast umgeingni þeirra manna — hvørs stands sem eru — sem nokkrar sérvitsku meiníngar ala, og ýmisligar grillur gjøra sér um andlig efni; því af slíkum, er mannt mesti háski búinn, ad afvegaleidast, einkum af þeim, sem í þægd vid hold og blód, hætt er vid ad gjøra veiginn til lífsins breidann.

2. Ad, ef madur umgeingst med þeim sálum, sem

---

*) Jafnvel þó margar adrar mikid gódar andligar Bækur séu til á voru máli, þéna flestar þeirra ekki sídur til ad stadfesta enn undirbúa umvendanina.

sjálfar — þó góða meiníngu hafi — ekki eru full stadfastar ordnar, og þess vegna líka sem reika til og frá, ad hann eingan dám af þeim dragi, til ad verda sjálfur reikandi og óstadfastur í því sanna góda.

3. Ad madur og svo, í tilliti hinna æfdu krístnu, sem stadfastir og reyndir ordnir eru, ekki auglýsi hvørjum sem einum þeirra þad, sem hans innvortis leidsla af Guds anda snertir; því annars kunna margir rádgjafendur, og þad þeir sem þó velmeint rád leggja vilja, ekki alltíd ad verda samdóma, í þeim tilfellum, um hvør réttilega ad dæma, ad stór vitska og andlig reynsla útheimtist, svo þeir kunna ad gjøra skada einum veikum og breiskum uppbyrjara. Géti madur feingid áreidanligan einn, í hærsta máta tvo rádgjafendur — ásamt Guds ordi — í tilliti sinnar innvortis leidslu, þá er þad meir enn nóg. Gud láti sinn góda heil. Anda vera vorn besta leidtoga og rádgjafa í þessu efni, um hvørn madur skal því óaflátanlega bidja Gud í Jesú nafni.

Utlagt úr þýdsku máli 1840.

---

## Nokkrar bendíngar til þeirra sem þau evangelisku Smárit eiga og lesa vilja:

Í tilliti þess allramikilvægasta, og aldrei ofopt umþeinkta efnis: „sannrar Umvendunar Naudsýn og Náttúru" géfur No. 18. (nfl. þær 16 hugvekjur), í því evangeliska Smárita-safni, kroptuga uppørfun og vegleidslu. No. 7. talar um sama efni, og varar mann vid ſølskum ástædum þar ad lútandi, eins No. 8, 14 og 19. No. 12 hrekur þær fánýtu afbatanir holdliga sinnadra manna

hér ad lútandi. No. 15 sýnir hann rètta máta ad lesa Heil. Ritníngu, og ekki sídur No. 31. En mørg Nr. har fyrir utan setja fyrir sjónir, sønn eptirdæmi Þeirra réttu evangelisku sinnaskipta, hjá øllum ýngri sem eldri, sem Guds anda hjá sér réttiliga rúm géfa, er upphvetja mætri hvørn hann sem hau les edur heyrir, til ad képpast eptir ad ødlast sømu lukku.

Gyrnist nokkur ad ná sem bestri sannfæríngu um Guddómligleika vorra kristiligu trúarbragda, Þá lesi hann med gaumgjæfni, Þær 10 Hugleidíngar úraf augsborgisku trúarjátníngunni, sem finnast undir Nr. 33, 36, 39, og 40; Líka Nr. 14 og 28; í hvørjum hann í stuttu máli finnur margar Þær røksemdir framsettar, er med leingri og snilldligustu útlistun framsettar finnast, í Þeim dýrmætu verkum, sem vér nú á voru módurmáli feingid høfum, eptir Þá hálærdustu Gudfrædis menn: Dr. Basthólm, í hans Høfudlærdómum kristilegra Trúarbragda; og Dr. Mynster, í hans Hugleidíngum yfir sama efni. Gjæsi Gud ad Þessi verk yrdu svo notud, sem augnamidi útgéfenda og høfunda best svarar.

Utgéfarinn.

---

Prentad í Videyar Klaustri,
1840.